# Verkalýðsblaðið

15 tbl. 9. árg. 12. okt. 1980 Verð: kr. 400,-

## Breytt kjarnavopnastefna

Sovétríkin hafa smám saman verið að ná Bandaríkjunum á sviði kjarnavopnabúnaðar. T.d. eiga sovétmenn nú fleiri langdrægar stórflaugar með kjarnaoddum en keppinauturinn.

Pentagonherstjórnin hefur lengst af látið miða kjarnaflaugum á sovéskar borgir og þéttbýlisstaði. Meðan Bandaríkin áttu margfalt fleiri kjarnavopn en Sovétríkin var stefnan sú að hræða kremlverja frá notkun kjarnavopna með því að hóta gífurlegu eigna- og manntjóni. Nú þegar Sovétstjórnin ræður yfir mjög mörgum stórflaugum, getur hún ýmist svarað fyrir sig í sömu mynt eða náð að eyðileggja stóran hluta af skotstöðvum Bandaríkjanna á

Framhald á síðu 2



Upphafið á mikilli baráttu? Sjá bls. 2

„Samtökin eru bráðnauðsynleg" Sjá opnu

## „Fundir í hádeginu og boðið í snarl"

Rætt við Sigurð Randversson



Fréttaritari VBL á Akureyri, tók Sigurð Randversson húsasmið tali nú nýverið. Sigurður hefur tekið þátt í starfi Trésmiðafélags Akureyrar, sem sennilega er líflegasta stéttarfélagið hér í bænum.

Sigurður var fyrst inntur eftir, hvernig honum þætti samflotin duga í yfirstandandi kjaradeilu.

S.R.: Gallar þessa samningsforms hafa komið skýrt í ljós í yfirstandandi samningsgerð. Stéttarfélögin og félagasamböndin geta ekki valið tíma og aðstæður, sem þeim eru heppilegastar. Þar með er dregið úr möguleikum til að ná hámarksárangri og auk þess dregur þessi samþjöppun úr möguleikum einstaklinga og stéttarfélaga til að hafa áhrif.

Samningar eru búnir að vera lausir í 8 mánuði og sjálfsagt er búið að ræðast við í 10 mánuði. VSÍ segir alltaf nei, en ASÍ boðar enn engar aðgerðir, þrátt fyrir að kaupmáttur hafi lækkað meir heldur en upphaflega kröfugerðin hljóðaði upp á.

VBL: Breytir núverandi ríkisstjórn einhverju þar um?

S.R.: Vafalaust hefur það áhrif, að það er þessi ríkisstjórn sem situr. VSÍ leikur hins vegar þann leik, að kalla til ríkisvaldið, sem nú vill vera vinveitt verkafólki og lætur það koma með félagsmálapakka. Þessir félagsmálapakkar hafa reyndar verið ágætir, en eru yfirleitt ekki annað en sjálfsögð mannréttindi. Þetta er svo látið líta út eins og atvinnurekendur séu að slá af. Atvinnurekendur hafa stóraukið áróðursherferð sína gegn kjarabaráttu verkafólks nú undanfarið og því miður hafa forsvarsmenn verkafólks ekki staðið sig í stykkinu að svara því.

VBL: Hvernig stóð Trésmiðafélagið að undirbúningi kjarasamninganna?

S.R.: Að mínu mati litu málin heldur öðruvísi út í fyrrahaust. Við héldum ráðstefnur um þessi mál, sem opnar voru öllum. Á þeim var allgóð mæting og þá var almennt talið rétt að vera með í samflotinu. Við ræddum okkar kröfur á þessum fundum og sérstaklega var lögð áhersla á nýtt afkastahvetjandi launakerfi, í stað uppmælingarinnar, sem margir smiðir eru að gefast upp á, vegna þeirrar vinnuþrælkunar sem henni er samfara.

Annars vil ég benda á að það er ekki sama, hvaða tíma við veljum til kjarabaráttu. Til þess er veturinn vonlaus fyrir okkur.

VBL: Hvernig hefur félagsstarfið gengið?

S.R.: Eins og víðar í verkalýðshreyfingunni, gengur treglega að fá menn á fundi.

Framhald á síðu 2

Hvar er alþýðufræðslan? Sjá baks.

Friðlýsing N-Atlantshafsins Sjá bls. 7

## Laun greidd í 10 mán. af 12

Það eru fleiri sem starfa við skóla landsins en kennarar. Húsverðir, gangaverðir, baðverðir, matráðskonur og ræstingafólk starfa þar líka. Meðal þessa fólks eru lægstlaunuðustu starfskraftar skólanna. Og það er ekki nóg með að þetta fólk hafi lægstu launin, heldur nýtur það ekki þeirra sjálfsögðu réttinda að fá laun greidd allt árið. Að vísu eru húsverðir undantekning, því að þeir vinna á sumrin við viðhald bygginganna. Verkalýðsblaðið kannaði hvernig þessi mál stæðu nú. Hjá Starfsmannafélagi Reykjavíkur fengust þær upplýsingar að þetta fólk fengi greidd laun þá níu mánuði sem skólarnir starfa og svo einn leyfismánuð, en þeir tveir mánuðir sem eftir eru, eru launalausir. Í samningum er sagt að þetta fólk eigi víst starf að hausti, og það hefur uppsagnarfrest, svo að segja má að það sé fastráðið. Ræstingafólk og matráðskonur eru í Framsókn og þar gildir það sama og um þá sem eru í Starfsmannafélagi Reykjavíkur. Baðvörður í einum skóla borgarinnar tjáði blaðinu að sumir þeirra fengu einhverja vinnu við íþróttahúsin á sumrin, en aðeins þeir sem lengst hefðu unnið við baðvörslu. Sjálfur sagðist hann vera það sprækur enn, að hann hefði

Framhald á síðu 6

# Upphafið á mikilli baráttu?

"Við höfum byggt skip og hús í mörg ár. Nú byggjum við pólitík fyrir okkur sjálf."

Orðin eru byggingaverkamanns í Gdansk, Póllandi í ágúst 198o. Og verkamaður við Lenín skipasmiðjuna í Gdansk sagði svo frá: "197o hafðist ég ekki að. Ég fór að sjálfsögðu ekki til vinnu á meðan á verkfallinu stóð, en ég gerði ekkert til þess að við sigruðum. Hvers vegna tek ég þátt núna? Ég á ekki annara kosta völ. Ef við bíðum ósigur mun það tákna endalokin á svo mörgu. Ef við sigrum mun það tákna upphafið á einhverju miklu. Þegar þú veist það, þá átt þú einfaldlega ekki annan kost."

## Ekki gegn sósíalisma

Verkföllin og barátta pólskrar verkamanna beinist ekki gegn sósíalisma. Þó Gierek og aðrir forkólfar austantjalds ásamt flestum vestrænum fjölmiðlum kalli fyrirkomulagið í Póllandi sósíalisma, er sá sósíalismi sem verkalýðurinn berst fyrir harla ólíkur. Barátta pólsku verkamannanna beinist gegn ógnandi skrifræðisauðvaldi, gegn fasískri kúgun, sem á ekkert skylt við sósíalisma nema nafnið og ríkisreksturinn.

Sú pólitík sem pólskur verkalýður byggir nú fyrir sig er ekki sovésk pólitík og ekki heldur bandarísk eða annars lands, hún er pólsk. Þeir sigrar sem þegar eru unnir eru ekki að þakka vestrænum stuðningi, heldur slyngri baráttu pólska verkalýðsins sjálfs. Verkföllin í Gdansk og víðar í Póllandi voru ekki háð samkvæmt erlendri forskrift, hvorki andófsmanna í austri eða vestrænum hugmyndum um það hvernig barist skal gegn sósíalfasismanum.

Pólsku verkamennirnir notuðu sér öll þau vopn sem bitu. Þeir tóku með þökkum við stuðningi kaþólsku kirkjunnar, en létu svo bænir klerka ekki aftra sér að halda verkfallinu áfram þegar klerkum þótti komið nóg nokkru áður en verkfallinu lauk og sigur var í höfn. Þeir tóku með þökkum við fjárstuðningi kristilegra demókrata frá Austurríki, enda voru þeir peningar ekki háðir skilyrðum.

Sósíalismi pólsku verkamannanna er ekki neinn hreinn og tær sósíalismi, sem ekki má óhreinkast af stuðningi borgaralegra afla. Sósíalismi þeirra er einfaldlega völd verkalýðs, að fá að ráða málum sínum sjálfir. Þeir sjá það sem margir "hreinir" sósíalistar sjá ekki, að forsenda þess að sósíalismi þeirra verði að raunveruleika, er að vinna verður saman ásamt mörgum andsósíalistum við að sigra þann "sósíalisma" sem Gierek og Brésneff kalla fasisma sinn. Það eru nefnilega margir andsósíalistar, sem líka eru andfasistar.

## Upphafið á einhverju miklu?

Enda þótt framtíðin ein skeri úr um það hvort sigrarnir í Póllandi boði upphafið á einhverju miklu er ljóst að pólskir kúgarar og lagsbræður þeirra í hinum austantjaldslöndunum horfa ekki fram á sælutíð í valdastólum.

– Við eigum okkur máltæki sem allt í lagi er að muna. Nú höfum við pólska leiðtoga bæði í Washington og Páfagarði (Brezinzky og Páfin), og nú viljum við fá pólskan leiðtoga í Varsjá. Þetta máltæki sögðu margir viðmælanda blaðamanns norska dagblaðsins Klassekampen, þegar hann var í Lenín skipasmiðjunni á meðan á verkfallinu stóð.

–Æ.



Í hinni fjálsu prentsmiðju í Lenín skipasmiðjunni í Gdansk. Frumstæð vinnubrögð en árangurinn frábær. Dreifiritin bárust frá manni til manns og voru skrifuð upp aftur og aftur úti í borginni. (Mynd : Klassekampen.)

Framhald af forsíðu

## „Fundir í hádeginu

S.R.: Hún er sjálfsagt ekki glæsileg, verkalýðshreyfingin er of vanmáttug, en allskyns reiknimeistarar of áhrifamiklir. Þeir skammta úr hnefa og tryggja að misréttið haldist, þeir ríku hafi sitt og þeir fátæku sitt. Fólk hefur minnimáttarkennd gagnvart þessum köllum, þorir ekki að blanda sér í málin, finnst það ekki hafa vit á hlutunum.

Þá hefur það viljað brenna við, að verkalýðsleiðtogarnir einangrist frá vinnustöðunum, auk þess sem treglega gengur að fá menn á fundi eða til að taka þátt í félagsstarfsemi.

Það virðist vera við marga að keppa og auk þess er vinnudagurinn langur. Eins og fram kom áðan, þá virðist gefast miklu betur að fara til félagsmannanna, heldur en að ætlast til að þeir komi til forystunnar.

Í sumar var hins vegar tekin upp sú nýbreytni að boðaðir voru fundir í hádeginu og mönnum boðið í snarl. Tiltölulega litlir hópar voru boðaðir í einu og vinnufélagar saman, þannig að umræður gátu orðið fjörugar og góðar. Reynslan af þessu var góð og miklu fleiri mál rædd en samningamálin, t.a.m. aðbúnaðarmálin, sem eru stórt vandamál hjá okkur. Í sambandi við það , er rétt að geta þess, að vinnuverndarvikan í vetur sem leið, var til stórra bóta. Bæði var að af stað fór umfangsmikil umræða og auk þess var margt lagfært sem verið hafði í ólestri lengi.

VBL: Kröfugerð ASÍ hefur töluvert verið gagnrýnd, hvað vilt þú segja um hana?

S.R.: Grunnkaupskrafan, þessi 5%, var náttúrulega hlægileg. Hins vegar þóttu mér félagslegu kröfurnar góðar. Ég held að menn hafi búist við að þetta næðist tiltölulega átakalaust fram. Á fundinum hjá okkur kom hins vegar í ljós að fáir eða engir voru reiðubúnir að fara í verkfall fyrir þetta.

VBL: Hver ætti að vera næstu skref í þessum málum?

S.R.: Það er sjálfsagt eðlilegt að hafa samninga BSRB til hliðsjónar. Ef hins vegar ekki nást samningar, þarf að endurskoða bæði kröfugerðina og samfloti ð.

VBL: Að lokum, hvernig líst þér á stöðu og þróun verkalýðshreyfingarinnar?

## Hvernig er að starfa með kommúnistasamtökunum

Auðvitað geta félagar fengið undanþágu frá almennum félagaskyldum og eins er hægt að vinna með Kommúnistasamtökunum án þess að teljast fullgildur félagi.

Aginn sem að framan er lýst er ekki ónauðsynlegur eða framandi vinnandi fólki. Styrkur þess liggur í samvinnu og skipulagi. Marxlenínistar hafa hins vegar ofgert í þessu efni og stundað ofskipulagningu og vinnuþrælkun að sumu leyti. Ný og breytt viðhorf okkar koma fram í sveigjanlegri starfsháttum og meiri áherslu á starf "utan" en "innan" samtakanna.

Líflegar og frjálsar umræður þróa áfram samtökin ef allt er með felldu. Kommúnistasamtökin segja að félagar verði að vera samtaka í starfi útávið og allir lúti þeir lýðræðislegum ákvörðunum. Hins vegar eiga félagar gjarnan að halda sínum persónulegu skoðunum fram innan og utan samtakanna um leið og þeir framfylgja ákvörðunum og áætlunum þeirra. Þetta er sanngjarnt fyrirkomulag en ekki endanleg lausn andstæðanna milli lýðræðis og miðstjórnar.

Með starfsháttum sínum vilja kommúnistar byggja upp virkari, aflmeiri og lýðræðislegri samtök en hina losaralegu óvirku flokka sem eru frekar fámennir en kalla sig fjöldaflokka. Fyrri mistök hafa slípað kerfið til og enn er rúm fyrir umbætur.

Vertu með lesandi góður!

–Snjólfur.

# Forvitin rauð



Nú er nýkomið út 3. tbl. þessa árs af blaði Rauðsokkahreyfingarinnar, Forvitin rauð. Að þessu sinni er aðalefni blaðsins um konur og vímugjafa. Það er afskaplega góð og athyglisverð umfjöllun og auk þess þörf. Einnig eru greinar um börn og hjónaskilnaði, Femó þar sem kvennasumarbúðir dönsku kvennahreyfingarinnar eru, grein um breska leikhópinn Clapperclaw sem var hér nýlega og sýndi við góðar undirtektir. Fjallað er um myndina Kramer gegn Kramer og margt fleira.

Takmark Rauðsokkahreyfingarinnar er að gefa blaðið út reglulega fjórum sinnum á ári og jafnframt að safna áskrifendum sem er grundvöllur slíkrar útgáfu. Hægt er að gerast áskrifandi á skrifstofu Rsh, Skólavörðustíg 12, 4. hæð, alla virka daga á milli 17 – 18.3o, síminn er 28798.

–há.

Framhald af forsíðu

## Breytt kjarnavopnastefna

landi. Reyndar hafa sovéskir herstjórnendur ávallt látið miða flugum á herstöðvar og samgöngumiðstöðvar eingöngu.

Nú hafa mennirnir í Pentagon endanlega tekið mið af vaxandi ógnarjafnvægi risaveldanna og breytt miðum flugskeyta sinna, til samræmis. Þau beinast nú að hernaðarlega mikilvægum stöðum austantjalds.

Með breyttri kjarnorkuvopnastefnu sinni hafa bandaríkjamenn aukið líkur á því að kjarnavopnum verði beitt í styrjöld milli risaveldanna. Slík notkun stefnir ekki lengur að fjöldaslátrun óbreyttra borgara í sama mæli og áður, heldur miskunarlausu tafli um hernaðarmannvirki og stjórnstöðvar.

Þessi breytta stefna sannar líka að hættan á stórstyrjöld vex nú hraðar en áður. Og hún minnir okkur ekki hvað síst á margskonar hernaðaryfirburði Sovétríkjanna sem krefjast þess að við margeflum baráttuna gegn sovésku hættunni, en einblínum ekki vestur um haf eins og mörgum andheimsvalda sinnum hættir til.

–agé

# Lausn Kampútseumálsins

Á meðan Dagblaðið og Morgunblaðið staðhæfa að ríkisstjórn Pol Pots hafi látið myrða tvær milljónir manna og vitna í breskar blaðagreinar sem segja frá því þegar "Rauðir Khmerar" stela matkorni hinna hungruðu, hefur stjórnin lagt fram tillögu til lausnar Kampútseumálsins. Frá henni er ekki greint í íslenskum fjölmiðlum. Betri árangur þjóðfrelsisaflanna í skæruhernaði gegn víetnömum og aukið fylgi almennings við þau eru heldur ekki fréttaefni.

Í tillögu kampútseönsku stjórnarinnar frá 15.ágúst eru þrjú atriði. Í fyrsta lagi skal Hanoi–stjórnin kalla heim allt víetnamskt herlið úr landinu í samræmi við ályktun 34.allsherjarþings SÞ. Í öðru lagi skulu haldnar frjálsar, leynilegar kosningar í landinu undir umsjón SÞ. Í þriðja lagi yrðu stjórnvöld í Hanoi laus allra mála eftir heimköllun síns herliðs og Kampútsea fer ekki fram á neinar skaðabætur.

Þessa lausn ber öllum réttsýnum mönnum að styðja.

–agé

Framhald af baksíðu

## Hvar er alþýðufræðslan ?

manna nota of mikla orku í rannsóknir og skrif á erlendum málum miðað við það sem fer í almenningsfræðslu. En reyndar fæst allt of lítið fé til rannsókna yfirhöfuð, en það er önnur saga. Menn ættu t.d. að taka Sigurð Þórarinsson, jarðfræðing sér til fyrirmyndar hvað snertir viðhorf til alþýðufræðslu. Vísindamenn eiga að sjá alþýðunni, en ekki þeim sem skera vísindin við trog arðs og eiginhagsmuna, fyrir góðu púðri.

Eigi breyting að verða á, þarf kröfur og baráttu fyrir þeim.

Háskólamaður

# Verkalýðsblaðið

Útgefandi: Kommúnistasamtökin
Ritstjóri: Ómar Harðarson (ábm)
Aðsetur: Frakkastígur 14 (í húsnæði Októberbúðar)
Opnunartími: kl. 16.00 - 18.00 þriðjudaga til föstudaga.
Sími: 29212
Pósthólf: 5186 125 Reykjavík
Gírónr.: 12200-9
Prentað í prentsmiðju blaðsins


## Samfylking launafólks

Kommúnistasamtökin telja að verkalýðssinnar verði að taka höndum saman nú er kjör fara hraðversnandi og verkalýðshreyfingin í heild er aðgerðalítil.

Kommúnistasamtökin vilja eyða ládeyðunni sem barátta og samtök vinnandi fólks eru nú í. Þau minna á að það er of seint að snúast til varnar gegn fyrirsjáanlegri kreppu og upplausn á Íslandi þegar allt er komið í kalda kol.

Enginn getur rétt hag launafólks við, eða fundið réttláta leið út úr ógöngum núverandi þjóðskipulags nema sá fjöldi sem skapar verðmætin og kann með þau að fara í eigin þágu. Núverandi flokkaskipting hefur gengið sér til húðar.

Kommúnistasamtökin gera öllum verkalýðssinnum hvar í flokki sem þeir standa og stjórnmálasamtökum tilboð um samstarf um brýn baráttumál, eitt eða fleiri.

Tillögur samtakanna um slík mál og stefnu í þeim eru þessar:

1. Barist verði fyrir lífvænlegum launum fyrir 40 stunda vinnuviku. Fyrsta skrefið gæti verið að ná fram kaupmætti samninga frá 1977, fullri verðtryggingu launa og sérstökum launahækkunum handa láglaunafólki.

2. Barist verði fyrir því að ríkisvaldið og fyrirtækin komi á fót fleiri vinnustöðum og lausum störfum þannig að fólksflótti úr landinu hætti og allar uppsagnir verði stöðvaðar.

3. Barist verði fyrir því að tekjur launafólks undir ákveðnu marki verði skattfrjálsar, en í staðinn komi m.a. tekjuskattsálögur á hlutafélög og stóreignamenn

4. Barist verði fyrir harðari samningastefnu, varðveislu verkfallsréttar og auknu sjálfstæði landshlutasambanda, sérsambanda og félaga innan hinna stóru sambanda launafólks. Samflotin svonefndu verði minnkuð.

5. Barist verði fyrir löggjöf um íbúðabyggingar, fasteignasölu og betri lögum um leigumál sem þjóni hagsmunum launafólks. Byggðar verði fleiri sölu- og leiguíbúðir á félagslegum grunni.

6. Barist verði fyrir því að lífeyrir og launabætur aðrar bætur ríkis og lífeyrissjóða dugi fólki til framfæris miðað við tekjur þess um leið og endurgreiðslur lána verði léttar.

Kommúnistasamtökin skora á aðra að svara tilboði þessu.

## Stóriðjumenn svari

Allar kannanir, umræður yfirvalda, áætlanagerð og fjármál stóriðju er farið með eins og hernaðarleyndarmál. Slík vinnubrögð fólks í ábyrgðarstöðum gagnvart almenningi eru andstæð lýðræði. Elías Davíðsson, kerfisfræðingur, hefur undanfarið birt ýmsar fróðlegar upplýsingar um þessi mál eða reynt að krefja framámenn um upplýsingar. Þeir neita ýmist að svara eða sitja sem fastast á gögnum.

Það er skýlaus krafa almennings að gögn um stóriðju eða undirbúning hennar séu gerð opinber. Sömuleiðis eiga opinberir fulltrúar að svara sé á þá yrt, hvort sem þeir heita Ragnar Halldórsson, Hjörleifur Guttormsson, Sigurgeir Jónsson eða Jóhannes Nordal.

## Sjálfstæð verkalýðsfélög

Bókagerðarmenn hafa ákveðið sjálfstæð verkföll. Þeir vilja ýta á eftir samningum og tryggja atvinnuöryggi sitt. Bókagerðarmenn minna okkur á að það á að setja afl að baki krafna og að borri ASÍ-forystunnar og samflotin í samningum hafa sýnt gagnsleysi sitt. Fleiri ættu að taka til hendinni.

Kommúnistasamtökin styðja kröfur og aðgerðir bókagerðarmanna og hvetja aðra til hins sama. Sama má segja um ályktun 24. þings Alþýðusambands Vestfjarða sem mun hefja sjálfstæða baráttu ef samningar dragast enn.

Hótanir atvinnurekenda um verkbönn skulu menn leiða hjá sér í bili.

22.9. -agé.

*BSRB:*
## Sáttaskál?

Ró hefur færst yfir herbúðir BSRB-forystunnar að Grettisgötu 89. Samkomulag samninganefndar BSRB og ríkisvaldsins er í höfn. Flest ef ekki öll bæjarstarfsmanna félög hafa samið við sína viðsemjendur upp á það sama og ríkisstarfsmenn fengu. Um 50% félagsmanna sáu ekki ástæðu til að segja álit sitt á samkomulaginu. Um það bil 70% af þeim sem greiddu atkvæði samþykktu samkomulagið og 30% sögðu nei.

Forystan sagði fólki að ekki væri hægt að ná hagstæðari samningum, a.m.k. hafði hún ekki trú á því. Sumir félagsmenn reyndu að brýna forystusauði sína og sögðu þeim að hengja á sig verkfallsbjölluna. En forystan hafði þegar hengt sig, sumir í félagsmálaskrautböndum, aðrir börðust um í flokksböndum og komust hvergi.

Hinn almenni félagsmaður stóð frammi fyrir vanda. Forystan hvatti fólk ekki til baráttu, hunsaði samþykktir félagsfunda frá síðastliðnu vori um undirbúning valdastéttar og atvinnurekenda. Að reynt sé að sætta hagsmuni verkalýðsstéttarinnar og valdastétta á kostnað launafólks auðvitað. Verkalýðsblaðið talar oft um stéttasamvinnu.

### Skál fyrir hverju?

Eitt dæmi um þetta er kokteilparty sem haldið var á dögunum, nánar tiltekið 10. sept. sl. Kokteilboð þetta er svo sem ekki merkilegt eitt sér. En það er talandi verkfallsaðgerða og rausaði um óskýrgreindan efnahagsvanda þjóðfélagsins.

### 14 þúsundin horfin

Í dag hefur peningalaunahækkunin upp á 14.000 kr., verið étin upp af hækkunum sem fylgdu í kjölfar samninganna eins og reyndar alla aðra mánuði ársins.

Almennir félagsmenn telja margir hverjir að forystumenn stéttasamtakanna setji flokkspólitíska hagsmuni ofar hagsmunum launafólks. Að forystumenn verkalýðshreyfingarinnar gangi erinda

Framhald á síðu 5

## Anarkí á Halló

Unglingavandamálið síðustu vikur hefur leitt til ýmiskonar viðbragða, allt frá kröfum um táragas og vatnsbyssur á unglingana, til þess sem kalla má "frjálslynda afstöðu", þ.e. fólk er minnt á að það var eitt sinn unglingar sjálft og kröfur hafa komið fram um bætta félagsaðstöðu unglinga. Viðbrögð yfirvalda hafa verið mjög í anda hins fyrrnefnda. Lögreglan er send á unglingana í miðbænum og hún telur sig hafa fullt leyfi til að beita haustaki og öðrum kúgunaraðgerðum til að leysa vandamálið. Það er stutt í táragas og vatnsbyssur frá því.

Kröfur um bætta félagsaðstöðu og annað slíkt eru mjög réttmætar. Komið hefur fram að engin, endurtek engin, aðstaða er í bænum fyrir unglinga sem vilja fara út að skemmta sér. Hins vegar komast 40.000 manns yfir 20 ára aldri inn á vínveitingahús ... verja helgi. Ýmsir

Framhald á síðu 6



## Stóriðja og náttúruvernd

Nú þegar stóriðja virðist í auknum mæli vera að komast á dagskrá hjá stjórnvöldum, er ekki úr vegi að líta ögn á hvaða möguleika náttúruvernd hefur gegn beinhörðum gróðasjónarmiðum.

Yfirstjórn náttúruverndarmála er í höndum menntamálaráðuneytisins. Náttúruverndarráð sér hins vegar um framkvæmdahliðina.

Hverjir eru þá möguleikar Náttúruverndarráðs til að koma í veg fyrir stóriðjuframkvæmdir?

Í lögum um náttúruvernd segir að leita verði umsagnar Náttúruverndarráðs áður en lagt er í slíkar framkvæmdir. Sé það ekki gert getur ráðið látið stöðva framkvæmdirnar meðan það gengur frá umsögn sinni. Fái Náttúruverndarráð hins vegar að láta álit sitt í ljós er ekkert í lögum sem segir að fara beri eftir því sem ráðið leggur til og það getur ekki friðlýst svæði nema með samþykki menntamálaráðuneytisins. Það er því ljóst að ríkisstjórnir geta, ef þeim sýnist svo, hunsað öll náttúruverndarsjónarmið í sambandi við stóriðjuframkvæmdir, nema svæðið hafi á einhvern hátt verið friðlýst.

### Höldum vöku okkar

Þetta þýðir í raun, að við sem áhuga höfum á náttúruvernd hvorki getum né megum treysta á að Náttúruverndarráð sjái um að vernda þau svæði sem verndunar eru verð. Þó þeir sem þar eiga sæti séu allir af vilja gerðir þá skortir þá vald til framkvæmda. Við verðum því að vera undir það búin að grípa til aðgerða til að fá stjórnvöld til að taka tillit til náttúruverndar við skipulagningu stórvirkjana og stóriðju.

– ei

umhverfi

kommúnistasamtökinkommúnistasamtökinkommúnistasamtökinkommúnistasamtökinkommúnistasamtökinkommúnistasamtökinkommúni
kommúnistasamtökinkommúnistasamtökinkommúnistasamtökinkommúnistasamtökinkommúnistasamtökinkommúnistasamtökinkommúni
kommúnistasamtökinkommúnistasamtökinkommúnistasamtökinkommúnistasamtökinkommúnistasamtökinkommúnistasamtökinkommúni

# „Samtökin eru bráðnauðsynleg"

## – viðtal við formann KS

Hver er staða Kommúnistasamtakanna og hvað hyggjast þau fyrir í vetur? Hvernig ætla samtökin að hasla sér stærri völl?

Með þessar spurningar í huga og fleiri báðum við á VBL Ara Trausta Guðmundsson, formann miðstjórnar Kommúnistasamtakanna, að svara nokkrum yfirheyrslupunktum.

### Róleg í tíðinni

Um stöðu KS og sameiningu Einingarsamtakanna og Kommúnistaflokksins sagði Ari að samtökin tvö hefðu sameinast í sumarbyrjun og hinn venjubundni upplausnartími sumarvinnu, sumarfría og félagsdeyfðar hafist strax á eftir. Þó skipti miklu máli ráðaleysi og pólitísk deyfð sem stafar af því að mönnum finnst margt hafa mistekist, verið rangt gert og samtökin eiga enn ólokið við hressilegt uppgjör við ýmislegt úr fyrra starfi. "Hinu má ekki gleyma sem vel hefur verið gert. Eitthvað virðist félagsstarf hjá öðrum stjórnmálasamtökum og almennt í þjóðfélaginu vera dauft" – sagði Ari – "og er það ekki skrýtið þegar samtök og flokkar hafa brugðist og efnahagurinn versnar. Menn bregðast í bili við með því að hugsa mikið um garðinn sinn, en líta svo smám saman meira í kring um sig.

Leiðréttingar á stefnu og starfi, meiri barátta og sameining kommúnista gefa tilefni til betur lifandi og djarfari samtaka. Og við höfum líka orðið vör við mun meiri áhuga fólks á samtökunum en frammistaða þeirra gefur hugmynd um. Það er þversögn."

### Í eðlilegt horf

Ari sagði að verið væri núna að koma félagsstarfi KS í betra horf, enda mörg verkefmi sem bíða úrlausnar. M.a. er haft samband við marga þeirra sem hafa hætt störfum á undanförnum árum og athuguð afstaða þeirra til samtakanna. "Eins eru margir sem ýmist hafa beðið sameiningar Einingarsamtakanna og Kommúnistaflokksins eða beðið eftir hentugu tækifæri til þess að þreifa á samtökum kommúnista" – sagði Ari. "Þeirra tækifæri er núna eins og sjá má af verkefnaskrá okkar."

Kommúnistasamtökin sárvantar greinilega fleiri vinnuhendur.

### Upp með Verkalýðsblaðið

"Líklega er ýmis vinna við Verkalýðsblaðið stærsta verkefnið. Með harðfylgi og mikilli sjálfboðavinnu tókst Einingarsamtökunum og Kommúnistaflokknum að koma fótum undir blöð með yfir 1000 á-, skrifendum, mörg hundruð eintaka lausasölu og vel yfir 2000 blaða upplagi. Áhugi á vönduðu og fjölbreyttu málgagni vinnandi fólks er töluverður og ber uppi miklu merkara blað en Verkalýðsblaðið er núna", segir Ari. "Við ætlum okkur að gera tilraun með aðstoð lesenda og félaga samtakanna.

Blaðið fer í fullkomna aðkeypta vinnslu og stefnir að 4 síðna stækkun og síðan tíðari útkomu, ef vel gengur. Þetta er milljóna fyrirtæki og verðum við t.d. að geta selt um 300 eintök af hverju tölublaði og safnað 200 nýjum áskrifendum og einni miljón króna fyrir 1.feb. Fólk utan KS ætlar að skrifa í blaðið og reyndar vantar mikið upp á gott fréttaritara og skrifarakerfi svo að blaðið verði líflegra."

### Viltu búa til stefnuskrá?

"Besta meðalið við óánægju eða deyfð okkar sjálfra verður samning nýrrar stefnuskrár fyrir samtökin. Þar er líka prýðistækifæri fyrir óháða sósíalista og kommúnista til að kynnast KS og hafa áhrif á þau. Meira að segja fólk úr Alþýðubandalaginu og Fylkingunni getur þarna skýrt línur milli stefnu sinna samtaka og okkar og eflt samvinnu róttæklinga.

Stefnuskrárvinnan fer mikið fram á opnum umræðu- og fræðslufundum og í Verkalýðsblaðinu, en í tengslum við hana er líka marxískt námskeið.

Enginn sem á annað borð hefur áhuga á samtökunum og marxisma á að bíða eftir frágenginni stefnuskrá, heldur taka þátt í mótun hennar. Önnur stjórnmálaöfl bjóða ekki upp á slíkt" – sagði Ari ennfremur.

### Samfylkingar í boði

Ari kvaðst sérstaklega vongóður um að samfylkingartilboð KS í hagsmunabaráttu verk margra framámanna marxismans.

vinnandi fólks, sem kynnt er í leiðara þessa blaðs, myndi hafa jákvæð áhrif á fjöldabaráttuna og samtökin. Fyrir utan starf í kring um þetta tilboð væri áætlað að starfa sem áður innan verkalýðsfélaga, Rauðsokkahreyfingarinnar og Samtaka herstöðvaandstæðinga – "Helst virkar en sl. vetur", sagði Ari. Hann tók fram að stofnun einhverskonar stuðningsnefndar við lönd 3. heimsins væri ekki ólíkleg

og nefndi m.a. komu fulltrúa afganskra þjóðfrelsisafla til Íslands. Svo eru uppi hugmyndir um ráðstefnu um stríðshættuna og varnarmálin og ef til vill um fleiri mál, þar sem ólík sjónarmið gætu komist í skemmtilega umræðu, sagði Ari.

### Áhrifalaus klúbbur?

Ari var beðinn að svara því umtali að KS væri "áhrifalaus smáhópur maóista".

Hann sagði að þrátt fyrir of mikla aðdáun áður á Kína (sem nú væri sem betur fer orðin gagnrýninn stuðningur), þá væri maóistahugtakið tilgangslaust því nútíma kommúnistar notuðu rit-

"Ég tel flesta nota orðið sem háðsyrði um þá sem þeir vilja láta líta út sem menn er hafi ekki stefnu í íslenskum stjórnmálum. Það er betra að ræða stefnu KS sem slíka en að gera lítið úr henni með einu orði" sagði Ari. Hann bætti við að KS væru minni en flokkarnir fjórir, og reyndar óvenju mannfá í bili, en að starfið byggðist á almennri virkni allra félaga samtakanna og að þau væru ekki smáhópur á íslenskan mælikvarða. "Stjórnmálahreyfingar byrja yfirleitt smáar. Okkar er ekki orðin tíu ára og hefur verið ansi lengi að slíta barnsskónum, m.a. af því að kratastefnan í Sósíalistaflokki og Alþýðubandalagi var búin að drepa alveg niður marxíska baráttu", sagði hann.

"Áhrifa marx-lenínista hefur gætt víða þó svo að þeim hafi ekki tekist að ná eðlilegum áhrifum miðað við tíma. Ég vil fyrst sjá rök fyrir áhrifaleysi okkar, áður en ég svara fullyrðingum. Kommúnistasamtökin eru bráðnauðsynleg ef takast á að koma af stað raunverulegum verkalýðsflokki. Nóg er fyrir af umbóta- og hentistefnuflokkum sem fá 100 af hverjum 1000 skráðum flokksmönnum til að vinna og gera aldrei mistök sem þeir gagnrýna sjálfir", sagði Ari T. Guðmundsson að lokum.

–a.



# Hvernig er Kommúnis

Félagsaðild að Kommúnistasamtökunum er ekki ólík félagsaðild að öðrum samtökum nema hvað reynt er að hafa lýðræði og almenna virkni meiri en í öðrum stjórnmálasamtökum.

# Er þörf fyrir kommúnís

Það fer varla fram hjá neinum, að staða alþýðunnar og ekki sýst verkalýðsins er afar slæm nú. Almenningur hefur sára lítil áhrif á stjórnun samfélagsins. Lýðræðið nær aðeins að kjörkössunum – og varla það, því stefna flokkanna fjögurra er keimlík og efndir kosningaloforða litlar.

Þeir, sem telja það nauðsynlegt að afnema núverandi auðvaldskerfi og koma þess í stað á kerfi, er byggir á félagshyggju og raunverulegu lýðræði, eiga tiltölulega lítið erindi í kjörklefana. Þeir þurfa að berjast hugmyndalegri og efnahagslegri baráttu allt árið um kring. En skyldu þeir þurfa samtök til þess?

### Menn bindast samtökum um ýmislegt...

Til þess að halda uppi öflugu íþróttalífi þarf íþróttafélag (eða félög), sem skipuleggur keppni og námskeið og knýr á um nauðsynlega mannvirkjagerð. Erfitt væri að hugsa sér öflugt félagslíf í skóla án skólafélags. Verkalýðsfélögin bættu kjör verkafólks og vörðu það sem vannst hér á árunum áður, meðan verkafólk réði félögunum og félagshyggja átti upp á pallborðið. Er hægt að hugsa sér mótun nýs þjóðfélagskerfis í óþökk ríkjandi stéttar, án þess að menn bindist um það einhvers konar samtökum?

Félög verða ekki til, nema einhverjar manneskjur ríði á vaðið. Íþróttafélag verður til við það, að einhverjir íþróttamenn og konur drífa í að stofna það, og það deyr jafnskjótt og enginn fæst til að leggja að mörkum vinnu og hugvit til að halda því gangandi.

### ...með misjöfnum árangri

Það er auðveldara að reka íþróttafélag en félagshyggjuflokk. Mörg íþróttafélög hafa starfað vel og lengi og er hægt að taka þau til fyrirmyndar, þegar stofna skal nýtt íþróttafélag.

Alþýðuflokkurinn og gamli Kommúnistaflokkurinn voru báðir félagshyggjuflokkar fyrstu æfiárin, en hafa

stasamtökinkommúnistasamtökinkommúnistasamtökinkommúnistasamtökinkommúnistasamtökinkommúnistasamtökinkommúnistasamtökinkommúnistasamt
stasamtökinkommúnistasamtökinkommúnistasamtökinkommúnistasamtökinkommúnistasamtökinkommúnistasamtökinkommúnistasamtökinkommúnistasamt

# r að starfa með stasamtökunum?

Félagi samtakanna greiðir sín gjöld og tekur þátt í starfsemi svonefndra grunneininga. Það er hópur félaga sem vinnur saman að ákveðnu verkefni, oft innan fjöldasamtaka. Þessi grunneining ræðir og mótar starf á sínu sérsviði. En um leið tekur hún þátt í umræðum og starfi sem samtökin vinna að í heild. Með þessu er reynt að tryggja lýðræði.

Fundir grunneininga eru á 2 - 3 vikna fresti svo mönnum gefist tími til starfs meðal fjöldans og síns einkalífs.

Ætlast er til að félagar aðstoði við að koma efni samtakanna, áróðri og Verkalýðsblaðinu á framfæri, en það er háð getu, tíma og aðstæðum hvers og eins. Nóg er til af verkefnum handa einstaklingum, t.d. vinna við Verkalýðsblaðið.

# Merk fundaröð – lítið á!

Þér gefst gott tækifæri til þess að fræðast um marxismann, sósíalisma á Íslandi og Kommúnistasamtökin nú í haust og vetur. Um leið getur þú tekið þátt í að móta nýja stefnuskrá Kommúnistasamtakanna. Þú getur komið gagnrýni á framfæri, hugmyndum eða tillögum.

Á tímum lægðar í baráttu sósíalista er ekki vanþörf á hressilegum átökum um bráðnauðsynlega stefnu í málefnum íslenskrar alþýðu. Sumum þáttum úr fyrri stefnu sósíalista og kommúnista þarf að losa sig við, slípa aðra til og festa nýjar hugmyndir að öðrum í sessi. Það þarf nýr vindur að blása um raðir sósíalista - nýr verkalýðsflokkur er ekki draumsýn eða ónauðsynlegur keppinautur Alþýðubandalagsins, heldur forsenda sóknar í stéttabaráttunni til lengri tíma.

## Fundur um sósíalískt Ísland

Fyrsti fundurinn verður mánudaginn 2o. okt. n.k. Fundarefnið nefnist "Hvers konar þjóðfélag viljum við"? Framsögumenn munu fjalla um spurningar eins og :-hvert beinist stéttabaráttan, hver er undanfari sósíalísks þjóðfélags, hvað er sósíalískt þjóðfélag, hvernig verður lýðræði, stjórnun og ríkisvaldinu háttað, hver verða markmið framleiðslu, félagsþjónustu ofl.

Þá verður einnig rætt um hvernig sósíalisma verður komið á.

## Líflegt fundarform

Fundurinn og hinir sem fylgja verða skipulagðir með almennri þáttöku fundargesta fyrir augum.

Fulltrúi Kommúnistasamtakanna mun halda stutta framsöguræðu. Fengnir verða menn utan samtakanna til þess að flytja aðra slíka. Umræður verða fyrst og fremst í umræðuhópum. Ýmislegt efni tengt fundarefninu verður á boðstólum.

Flestir fundirnir verða í kjallarasal Hótel Heklu við Rauðarárstíg í Reykjavík. Kaffiveitingar eru þar og góð aðstaða.

## Farið dýpra í efnið

Fundurinn 2o. okt. verður ekki sá eini um efnið. Ætlunin er að fara betur ofan í efnið, bæði í ljósi rita marxismans og umræðna 2o. okt., á öðrum fræðslufundi viku síðar, mánudaginn 27. okt. og þá væntanlega í Sóknarsalnum á Freyjugötu. Þar verður ein framsaga og umræður í hópum. Eftir þessa tvo fundi um sósíalisma á Íslandi mun endanlegt uppkast að 1. kafla stefnuskrár Kommúnistasamtakanna birtast í Verkalýðsblaðinu. Eftir það sendast skriflegar athugasemdir til blaðsins.

## Fjögur önnur efni

Sami háttur verður á hafður í vinnslu hinna fjögurra kafla stefnuskrárinnar.

Um efnið: "Hvaða starfshætti og skipulag notum við í baráttu fyrir sósíalisma", verða fundir mánudagana 17. og 24. nóvember. Þá er m.a. fjallað um verkalýðsflokk, verkalýðsfélogin ofl. Íslenska auðvaldsskipulagið innviðir þess og gangur mála, ásamt stefnu í hagsmunabaráttu alþýðu manna er á dagsskrá mánudagana 8. og 15. desember.

Á nýja árinu er fundur um jafnrétti og mannréttindi og kröfur í þeim málum mánudagana 12. og 19. janúar, en um utanríkisstefnuna mánudagana 9. og 16. febrúar undir yfirskriftinni "Samstaða með arðrændum og kúguðum".

Stefnuskrárnefnd Kommúnistasamtakanna mun skeyta kaflana saman og þing samtakanna afgreiða stefnuskránna fyrri hluta árs 1981.

Við hvetjum alla lesendur Verkalýðsblaðsins til þáttöku í fundunum. Menn verða að fylgjast með auglýsingum í blaðinu og í öðrum blöðum um fundina.

(frá framkv. nefnd KS)

# sk samtök?

breyst í dygga þjóna núverandi arðránskerfis og sundra verkafólki með skrumi og blekkingum. Flokkarnir fjórir skiptast á um að toga þjóðina æ dýpra ofan í fenið.

Kommúnistaflokkurinn í Sovétríkjunum byrjaði vel, en er nú orðinn að einu afturhaldssamasta og hættulegasta stjórnmálaafli heimsins. Kínverska flokknum hefur tekist mun betur að rækja ætlunarverk sitt og er vonandi, að framhald verði á því.

Mér vitandi hefur alþýðan aldrei náð langt í baráttunni, án þess að skipuleggja einhvers konar forystusveitir. Verkföllin í Póllandi hefðu varla orðið sigursæl, ef ekki hefði verið starfandi þar andófshreyfing, sem hefur lært af reynslunni af undanfarandi verkföllum þar, svo dæmi sé nefnt.

## Því fleiri kokkar, því verri grautur?

Margir hafa dregið í efa réttmæti kenningar Leníns um einn forystuflokk verkalýðs, og telja, að þeir þurfi að vera margir, svo lýðræði sé tryggt. Ég tel það litla tryggingu fyrir lýðræði, þó flokkar séu margir. Fjöldi flokkana skiptir ekki höfuðmáli. Einn flokkur er nóg, ef lýðræði dafnar innan hans og nær til óbreyttra verkamanna. Einn slíkur flokkur er betri en lo Alþýðubandalög eða 2o Alþýðuflokkar.

## Sérstaða Kommúnistasamtakanna

Sumir eru mjög daprir yfir því, hvað við kommarnir höfum gert margar skyssur. Það á þó ekki við um mig. Við erum að vinna brautryðjendastarf í vissum skilningi og slíkt gerist aldrei án mistaka. Við þorum að horfast í augu við mistökin og reynum stöðugt að leiðrétta okkur. Mikið af okkar gömlu stefu hefur staðist tímans tönn og félagarnir eru reynslunni ríkari. Ég álít Kommúnistasamtökin hafa talsverða sérstöðu í stjórnmálaflórunni nú og vil í því sambandi nefna nokkur stefnumið:

1. Viljum nýtt efnahagskerfi og nýtt ríkisvald, þar sem hagsmunir verkafólks vegi þyngst.
2. Fólk þarf að búa sig undir að þurfa að beita valdi, þó svo að allt verði gert til að komast hjá því.
3. Leggjum áherslu á að útbreiða marxíska hugmyndafræði, vísindalegar rannsóknir gagnrýni á eigin verk sem annarra og opna skoðanabaráttu við stefnumótun. Reynslan er síðan mælikvarðinn á réttmæti stefnunnar.
4. Vörum mjög við hættu á nýju heimsstríði og teljum bæði Bandaríkin og Sovétríkin ógna heimsfriðnum, Sovétríkin þó meira, þar sem þau hafa þanist út hin síðustu ár á sama tíma og Bandaríkin hafa misst áhrif.
5. Leggjum meira upp úr starfi út á meðal fólks en á þingsalabaráttu. Teljum lýðræði mjög ábótavant og brýn þörf sé á að rækta það hvar sem kostur er, einkum þó í verkalýðshreyfingunni.
6. Viljum mæta kreppunni með harðari kjarabaráttu, ekki með undanslætti eins og nú tíðkast.
7. Viljum vinna með öðrum samtökum og flokkum að ákveðnum baráttumálum, ef samstaða næst.

Annars vil ég vísa til stofnsamþykktar og laga Kommúnistasamtakanna, sem birtust í Verkalýðsblaðinu í júní s.l.

Kommúnistasamtökin eru ekki flokkur, heldur vísir að nýju stjórnmálaafli. Okkur finnst hart að horfa upp á óréttlætið og afglöpin vaxa allt í kring um okkur, en geta allt of lítið aðhafst. Okkur vantar fleiri fórnfúsar hendur og fleiri góð ráð og ábendingar. Við erum of fá og leggjum ekki nógu hart að okkur. Ég vil biðja þig um að gaumgæfa, lesandi góður, á hvern hátt þú getur aukið framlag þitt til baráttu alþýðunnar fyrir mannsæmandi þjóðfélagi. Aðgerðarleysi er þjónusta við ríkjandi stétt.

Þöá.

Framhald af síðu 3

# Sáttaskál?

dæmi um þann "baráttuanda" sem ríkjandi er milli atvinnurekenda og launafólks.

Ragnar Arnalds bauð sem sé samninganefnd BSRB til síðdegisdrykkju til að fagna nýgerðum samningum. Ekki rekur mig minni til að hafa heyrt um svipaða sáttaskál en gaman væri að heyra hvort þær tíðkuðust víðar.

Engin slík skál var drukkin að afloknu verkfalli 1977.

Ef til vill verður hún hluti af næsta félagsmálapakka, sem væntanlega verður boðinn ér samningar renna út að ári liðnu og nær þá til trúnaðarmannaráða?

Kristján Torlacius sagði við þetta tilefni eitthvað á þá leið að Ragnar Arnalds mætti vera stoltur af samninganefndarmönnum ríkisins. Kristjáni og Co finnst líklega að hann og samtökin hafi loks fengið verðuga viðsemjendur. Eða hvað meina menn með svona viðhorfi?

En ekki þýðir að gráta Björn bónda og félagsmenn BSRB verða að meta hvernig til hefur tekist eftir 14 mánuða samningaþóf. Þeir verða einnig að mæta á félagsfundi og taka þátt í að móta stefnu samtaka sinna.

Fréttaritari.

# Viljum við almennilegt blað?




Í vor barst innanfélagsblaði EIK(m-l) grein um Verkalýðsblaðið frá "Óskari". Innanfélagsblaðið kom ekki út eftir þetta og varð að ráði að gera útdrátt úr greininni til birtingar í Verkalýðsblaðinu þar sem efni greinar Óskars á erindi í umræðu um blaðið. Jafnframt biðjumst við afsökunar á drættinum.

Eins og blaðið er nú höfðar það til mjög fárra, ekki einu sinni allra áskrifenda. Við gætum alveg eins gefið það út fjölritað ef við vildum að það héldi einungis áfram að höfða til mjög fárra. En erum við fær um að gefa út betra blað? Ég held ekki. Ein sér höfum við ekki þá þekkingu á stjórnmálum sem til þarf og ekki heldur á blaðamennsku og blaðaútgáfu. Samt höfum við ýmislegt sem kemur sér vel við útgáfu. Við höfum áhuga á pólitík, viljum efla hag vinnandi fólks, höfum all sæmilega heildarsýn yfir viðburði stjórnmála heima og erlendis þannig að við getum sett þá í samhengi. Að einhverju marki getum við líka skipulagt starf okkar.

Síðan ræðir Óskar um þá leið að smá bæta blaðið en telur að heppilegra sé að leita róttækra ráða:

Ég tel að við ættum að reyna að hóa saman fólki úr ýmsum áttum og stofna með því útgáfufélag, t.d. hlutafélagsformi. Slíkt félag sæi um rekstur og afkomu blaðsins. Væri útgáfufélagsstjórn ábyrg fyrir fjárhagslegum rekstri blaðsins en ritstjórn fyrir heildarstefnu blaðsins, útvegun fréttaritara og sérfræðinga á ýmsum efnissviðum svo og blaðamanna- og ritstjóraráðningu en myndi ekki ráða einstök tölublöð.

Val ritstjóra við slíkt blað er vandaverk. Við þurfum að leita út fyrir okkar þröngva hóp að starfandi blaðamanni með reynslu, framsæknar skoðanir, lipran penna, frumkvæði og áræði.

Óskar ræðir nokkuð fjárhagsáætlun í tölum og lætur síðan í ljós það álit sitt að auglýsingar séu óhjákvæmilegar við blaðaútgáfu hér á landi ef eigi að standa að henni af viti. Auðvitað verði þó að hafa einhverja pólitík um auglýsingar, svo sem hverjir fái að auglýsa og hvernig sé auglýst.

Síðan segir Óskar: Með þessu formi væri blaðið ekki rekið af samtökum kommúnista eins og nú er og það væri jafnvel óvíst að stefna blaðsins færi að öllu leyti eftir vilja forystu samtakanna eða félaganna. Ég tel að það þyrfti ekki að vera til skaða svo framarlega sem frjálsar umræður eru leyfðar í blaðinu. Samtök kommúnista verða þá óháð slíkum ágreiningi í einhverjum minni háttar atriðum að styðja vel við bakið á blaðinu, t.d. hvað varðar dreifingu þess og aðra útbreiðslu. Mikilvægast er að kommúnistar leggi fram mikla krafta við að skapa tengsl blaðsins við sem stærstan hóp utan samtakanna.

Í apríl 1980,

Óskar.

# Framboð kommúnista



Eitt ágreiningsefni fyrirrennara Kommúnistasamtakanna var afstaðan til framboðs í Alþingiskosningum

Ekki er ljóst hvort ríkisstjórninni endist aldur út kjörtímabilið. Margir hafa beðið henni griða, en dagblöðin heyja svo prósentu- og tilvitnanastríð til að sanna eða afsanna dáðleysi stjórnarinnar. Hve margra vonir um farsæla stjórn og betri tíð hafa brostið?

Mér sýnist harla margir vera fremur farnir að setja spurningamerki við sjálft þjóðfélagskerfið en þessa eða hina ríkisstjórnina. Það er góðs viti. Og enn betra er þegar menn vilja reyna sjálfstæða baráttu fólksins sjálfs fyrir hagsmunum sínum fremur en hnappheldu þingsalabaráttunnar og stjórnarþátttöku.

Íslenskt flokkakerfi er að riðlast. Flokkarnir hafa allir fjórir þurrkað að mestu út mun á heildarstefnum sínum í framkvæmd. Svo eru innviðir þriggja þeirra að bresta. Hörð efnahagskreppa á Íslandi mun verka á þá eins og skilvinda.

Kommúnistahreyfingin á Íslandi er að rétta sig hægt við eftir margar pólitískar villur á sínu bernskuskeiði. Þess vegna eru ágæt tækifæri framundan til að vinna traust fylgi.

Einn liður í því er framboð til næstu alþingiskosninga. Það þarf að fullnægja a.m.k. tveimur skilyrðum. Það verður að byggja á almennri kosningastefnuskrá sem tekur á íslenskum raunveruleika. Og á samvinnu Kommúnistasamtakanna og annara íslenskra sósíalista. Samfylkingartilboðið sem kynnt er í þessu blaði er upphafspunktur, en samtökin og þið lesendur ráðið framhaldinu.

Hefjum nú þegar undirbúning að framboði.

Ari T. Guðmundsson.

Framhald af forsíðu

# Laun greidd í 10 mán. af 12

fengið byggingavinnu í sumar, en það gæfi auga leið að sama gilti ekki um marga kollega hans, sem væru eldri og lúnari.

Baðvörður í Kópavogi hafði svolítið aðra sögu að segja, þar sem þeir ásamt skólariturum þar í bæ, náðu því fram í samningunum 1977 að fá greidd laun allt árið. Hins vegar eru gangaverðir, matráðskonur og ræstingafólk í Kópavogi engu betur sett, hvað þetta varðar, en félagar þess í Reykjavík.

Það er hrein svívirða hvernig þessi mál standa. Þessi störf eru að sjálfsögðu aðalstörf þessa fólks, og það þarf að lifa á þeim launum sem það fær fyrir. Það væri fróðlegt að vita hvernig þeir sem þessum málum ráða ætla þessu fólki að lifa þá tvo mánuði, sem það er launalaust. Sjálfir hafa þeir góðar tekjur og þurfa ekki að vera hræddir um að eiga ekki fyrir salti í grautin.

Baðverðir í Kópavogi þurftu að sýna samstöðu og standa í löngu þrasi. Ættu aðrir að gera slíkt hið sama, enda ósennilegt að ráðamenn hafi áhuga á að bæta kjör þeirra án þrýstings.

Hafst.



Framhald af síðu 7

# Rokkað gegn her

kræfur karl og hraustur" vel tekið. -Skemmtileg tilviljun að höfundur þessa gamla rómantíska sjóaraslagara er hinn góðkunni herstöðvaandstæðingur Jónas Árnason.

## Utangarðsmenn

Á eftir Þursum rokkaði "heitasta" hljómsveit landsins, Utangarðsmenn með Bubba Mortens við söngkerfið.

Utangarðsmenn byrjuðu á að flytja hið fræga kvæði James Thurber um "Síðasta blómið" í þýðingu Magnúsar Ásgeirssonar með reggaeundirleik. Virkilega gott verk.

Áfram héldu Utangarðsmenn í raggaeinu. Textarnir fjölluðu flestir um hernað og kjarnorku. Undir lokin varð rokkið raggaeinu yfirsterkara. Blönduðust þá lög af sóloplötu Bubba "Ísbjarnarblús", inn á milli nýrra rokklaga. Stemmningin náði þó aldrei því hámarki sem búast hefði mátt við séu aðrir hljómleikar Utangarðsmanna hafðir til hliðsjónar. Bubbi var greinilega ekki í sínu besta formi. Eflaust hefur vondur hljómburður "hallarinnar" og veikt söngkerfi átt sinn þátt í því. Stundum var eins og söngurinn hreinlega hyrfi.

En áheyrendur kunnu greinilega að meta kraftmikla og safaríka tónlist Bubba og Utangarðsmanna.

Loks komu Táragas, Karl Sighvatsson og félagar, fram til að ljúka við verkefnið sem þeir urðu frá að hverfa þegar kvikmyndavélin sveik þá fyrr í dagskránni.

## Niðurstöður

Yfir heildina litið tókust hljómleikarnir mjög vel. Boðskapurinn Rokk gegn her, komst vel til skila.

Það var sannarlega kominn tími til að íslenskir rokktónlistarmenn rokkuðu í þágu einhvers verðugs málstaðar. En hljómleikar á borð við þessa kosta geysimikið og fórnfúst starf tuga eða jafnvel hundruða sjálfboðaliða. Það þarf þó enginn herstöðvaandstæðingur að sjá eftir því starfi. Hljómleikar eins og Rokk gegn her skila án efa meiri árangri en margar göngur og flugmiðar. Rokkið er baráttutæki dagsins í dag, hvort sem mönnum líkar það betur eða ver.

Nú er bara að fylgja þessari glæsilegu byrjun nýrrar baráttuaðferðar eftir. Það verður þá vonandi ekki langt að bíða að við getum þakkað rokkinu fyrir herlaust Ísland.

-j.guð.

## Anarkí á Halló

æskulýðsfrömuðir hafa jafnvel gengið svo langt að krefjast lækkunar áfengiskaupaaldurs niður í 18 ár og vilja slaka á eftirliti með víndrykkju unglinga almennt.

### Firring unglinga

Aukin víndrykkja meðal unglinga er varla lausn. Þvert á móti. Vandamálið liggur í því að fólk á aldrinum 13-20 ára er að mestu ónothæft í framleiðslunni. Það hefur ekki næga menntun til að fara út í æ sérhæfðari störf þjóðfélags okkar. Því er haldið í skólum, sem gegna tvíþættu hlutverki, annarsvegar einfaldlega að geyma þennan hóp einhvers staðar og hins vegar að búa þau undir sérhæfð störf sem oftast eru síðan illa launuð og óaðlaðandi. Stór hluti dettur út strax að loknu skyldunámi, enda er skólakerfi sem byggt er á slíkum markmiðum (sem ekki eru þó yfirlýst markmið) ekki fallið til þess að þroska fólk eða vekja áhuga.

Heimilin bjóða heldur ekki upp á mikinn stuðning í lífsbaráttu unglinganna. Þau eru í raun neyslueiningar, þar sem sofið er, horft á sjónvarp og borðað. Foreldrar hafa kannski lítinn tíma til að sinna krökkunum sökum vinnuálags.

### Afleiðingar

Þegar þessar tvær stofnanir, sem hingaðtil hafa verið taldar helstu uppeldisstofnanir þjóðfélagsins bregðast þannig hlutverki sínu og eru svo firrtar frá vandamálum unglinganna, er mjög eðlilegt að þau leyti stuðnings meðal jafnaldra, safnist saman þar sem hægt er með ýmsum afleiðingum. Rökrétt afleiðing hins niðurhólfaða auðvaldsþjóðfélags er að tekið er á vandamálinu án þess að líta á það í samhengi. Unglingarnir eru í raun ekki hluti þjóðfélagsins eins og yfirvöld líta á málið og brugðist er við samkvæmt því.

### Eru unglingar óvirkir viðtakendur?

Þjóðviljinn hefur sennilega fjallað einna best um þessi mál. Hann hefur þó gleymt að geta þess að unglingar eru fólk með sjálfstæðar skoðanir og hugsanir. Til eru kallaðir sálfræðingar og uppeldisfræðingar til að ræða málið, sem líta á unglingana sem viðtakendur, óvirka, sem því miður er allt of algeng afstaða. En vissulega geta unglingar hugsað sjálfstætt. Þeir eiga að taka málið í sínar hendur og heimta sinn rétt. Það sem gerir unglingana óvirka er risavaxið kerfi lögreglu, skólastjóra og annara fræðsluyfirvalda o.s.frv. Þetta kerfi neitar unglingunum um að vera fullgildar mannverur og gegn því eiga krakkarnir að beina spjótum sínum. Gagnslaust er að troða niður gróður á Austurvelli og brjóta rúður. Vandamálið er því eins og svo víðar: Kerfið. En svarið við því er eins og Jimmy Pursey í bresku pönkhljómsveitinni Sham 69 söng hér um árið:

"If the kids are united
They will never be divided".

Hafnarstrætis Móri.

# Í gegnum hreinsunareldinn

skiptar skoðanir

## Fyrst lék allt í lyndi...

Fyrir nokkrum árum var kraftur í okkur kommúnistunum. Menn lögðu nótt við dag og skrifuðu, prentuðu, dreifðu dreifibréfum, seldu blöð og bæklinga og ræddu málin á endalausum fundum. Þetta starf var borið uppi af námsmönnum, nýbökuðum menntamönnum og ungu verkafólki. Vegvísarnir voru rit stóru meistara Marxismans og áhrif frá erlendum skoðanabræðrum á Norðurlöndum, Kína, Albaníu og víðar.

## ...en þegar betur var að gáð...

Við lögðum hart að okkur og bjuggumst við skjótari árangri en raun varð á. Samtímis urðu mikil umbrot í kínverskum stjórnmálum, sem við reyndum að fylgjast með og draga lærdóm af. Við fórum að efast mjög um mörg atriði í stefnu okkar og fyrir u.þ.b. 2 árum hófst tímabil mikilla stefnubreytinga og uppgjörs við villur. Ekki svo að skilja, að það væri í fyrsta skipti, sem við gerðum upp við eigin villur, heldur voru hér mun stærri mál til umfjöllunar. Málið snerist ekki lengur um mistök íslenskra kommúnista einna, heldur um ranghugmyndir, sem fylgt hafa kommúnískum flokkum og hreyfingum um allan heim (t.d. of lítil áhersla á að efla lýðræði, örfá opin skoðanaskipti og dreifa valdi).

## ...voru maðkar í mysunni

Okkur hætti til að nota marxísk rit eins og matar-uppskriftir, þannig að allur vandinn fólst í því að skilja rétt það sem þar stóð (héldum okkur þó vera að móta marxíska stefnu við íslenskar aðstæður). Þannig áttum við í raun okkar biblíur og óskeikulir guðir okkar voru Marx, Engels, Lenin, Stalín og Maó.

## Nú er erfitt að lifa

Þegar fótunum hafði verið kippt undan þessum marxísku trúarbrögðum okkar, stóðum við frammi fyrir nýju vandamáli (og stöndum reyndar enn): Nú látum við ekki nægja að fletta upp í verkum Lenins eða að fylgjast með því hvernig vandamálin eru leyst í Kína. Nú verðum við að treysta á eigin skilningarvit og dómgreind í mun ríkara mæli. Við eigum það alltaf á hættu að komast að rangri niðurstöðu.

Besta ráðið til að leiðrétta slíkt er stöðug opinská og heiðarleg gagnrýni, jafnt á eigin verk sem annarra. En það er nú hægar sagt en gert.

## Enn þarf að ræða málin...

Ekki er ætlunin að telja hér upp öll þau mál, sem hafa verið til endurmats. Verkalýðsblaðið hefur fjallað nokkuð um slík mál í á annað ár og heldur því vonandi áfram um ókomna framtíð. Einn af ávöxtum þessa endurmats var sameining Eik(ml) og KFÍ(ml) í ein samtök.

Stefna okkar og starfshættir hafa gengist undir mjög stóran uppskurð og er enn ekki útséð um hvernig Kommúnistasamtökunum mun reiða af. Hin nýju samtök eru varla komin í gang ennþá og margir félagar þeirra ruglaðir, hikandi eða í biðstöðu.

Enn um sinn verða Kommúnistasamtökin að leggja höfuðáherslu á umræðu og skoðanabaráttu um ýmis grundvallarvandamál. Sú umræða er liður í mótun nýrrar stefnu og jafnframt námi og þroskun fólks innan og utan samtakanna.

## ...og jafnframt að taka til hendinni

Við megum ekki bara sitja og skrafa meðan fólk er meðhöndlað eins og réttlausir þrælar og efnahagskerfið keyrt í rúst. Við verðum að taka þátt í stéttabaráttunni, bæði sem einstaklingar hver á sínum stað, og eins sem samtök í stórum málum. Það þýðir lítið að smíða góðar hugmyndir, ef engin þeirra er prófuð í starfi, eða hvað finnst ykkur?

Þóá.

# Rokkað gegn her

tónlist

13. sept. sl. fóru fram í Laugardalshöllinni hljómleikar undir nafninu Rokk gegn her. Um 3000 manns mættu. Er það svipaður fjöldi og mætti á hljómleika bresku nýbylgjuhljómsveitarinnar The Clash í Laugardalshöllinni í júní sl.

Hinni góðu aðsókn að Rokk gegn her, má eflaust þakka vel heppnaðri og skipulagðri auglýsingaherferð herstöðvaandstæðinga.

Nokkrum dögum fyrir hljómleikana vöknuðu reykvíkingar upp við það að bærinn var orðinn fullur af vopnuðum, einkennisklæddum, amerískum hermönnum, að því er virtist. Hvað var um að vera?

Amerísku atvinnumorðingjarnir á Miðnesheiði urðu ekki síður hissa á þessu en reykvíkingar. NATO-þyrlur sáust sveima yfir hermönnum í Reykjavík. Jók þetta mjög á stemmninguna.

Vopnuðu, einkennisklæddu hermennirnir voru herstöðvaandstæðingar að vekja athygli á Rokki gegn her og málstaðnum.

Spruttu víða upp fróðlegar og gagnlegar umræður um NATO, herinn, herstöðvaandstæðinga og Rokk gegn her.

## Hljómleikarnir

Góður undirbúningur dugir þó skammt ef ekki kemur annað til. Og í þessu tilfelli verður ekki gert lítið úr afskaplega freistandi dagskrá hljómleikanna.

Í sjálfu sér var nógu freistandi að eiga kost á að hlýða á tvær vinsælustu, bestu og hressilegustu rokkhljómsveitir landsins á einum og sömu hljómleikunum.



Þegar svo fylgir í kaupbæti leikur bestu djassrokkhljómsveitar landsins, uppákoma rokkleikhópsins Táragas og kvikmyndasýning frá átökunum á Austurvelli '49, þá fara jafnvel hörðustu kanadindlar að hugsa sig tvisvar um.

Eins og allir hérlendir rokkhljómleikar hófust Rokk gegn her hljómleikarnir nokkuð á eftir áætlun. Það var djass-rokk ("fusion") - hljómsveitin Mezzoforte sem hóf hljómleikana eftir stutt ávarp Sveins Rúnars Haukssonar.

Tónlist Mezzoforte er öll "instrumental", þ.e. án söngs. Útsetningar eru kaldar og einum of einhæfar. En góður hljóðfæraleikur gerir Mezzoforte áheyrilega hljómsveit. Sérstaklega er gítarleikur Friðriks Karlssonar og trommuleikur Gunnlaugs Briem skemmtilegir.

Gunnlaugur er orðinn afar næmur á réttar áherslur í trommuleik, líkt og Nicy "Topper" Headon trommari The Clash. Enn skortir Gunnlaug þó nokkuð af þeirri tækni sem Headon og t.d. Ásgeir "Þursi" Óskarsson hafa yfir að ráða.

Næstir rokkuðu Þursar. Egill var í góðu formi, fyndinn og skemmtilegur. Tónlist Þursaflokksins var í anda Rokks gegn her. Þar af leiðandi sat kraftmikið málmrokk í fyrirrúmi. Áheyrendur kunnu vel að meta slíkt. Sérstaklega var pönk rokk-útsetningu Tómasar bassaleikara á "Jón var

Framhald á síðu 6

# Friðlýsing N-Atlantshafsins

Á að friðlýsa N-Atlantshafið? Á landsráðstefnu SHA 1978 kom í annað sinn fram tillaga um slíkt. Skyldi friðlýsingin vera liður í baráttu gegn hernaðarstefnu stórveldanna? Nú er þetta mál aftur á dagskrá hjá SHA.

## Hvað er friðlýsing?

Venjulega er átt við yfirlýsingu landa sem liggja að hafsvæði um bann þar við hernaðaræfingum og -aðgerðum þegar rætt er um friðlýsingu. Hins vegar er ekki hægt að stöðva siglingar herskipa á alþjóðlegri siglingaleið á friðartímum. Sú leið telst vera utan landhelgi (t.d. 12 mílna) en innan fiskveiði- og auðlindalögsögu (t.d. 200 mílna). Banninu er ekki hægt að fylgja eftir utan landhelgi og telst fremur tilmæli og viljayfirlýsing en árangursríkt eða víðtækt bann.

## Gömul hugmynd

Friðlýsing er ekki ný af nálinni. Ríki við Indlandshaf hafa t.d. friðlýst hluta af því. Á Íslandi hefur friðlýsingin helst verið rædd í kringum SHA eða inni á Alþingi. Á Norðurlandaþingum hefur verið á hana minnst. Ekki er okkur kunnugt um árangur af friðlýsingunni á Indlandshafi en víst er að bæði risaveldin hafa aukið hernaðarumsvif sín þar undanfarin ár, sérstaklega í og við Persaflóa og Malakkasundið.

## Kostir og gallar

Helstu kostir friðlýsingar felast í samstöðunni er tekst með ríkjunum sem að henni standa. Það er álitshnekkir að brjóta gegn friðlýsingu. En gallarnir eru augljósir. Friðlýst hafsvæði er tekið til stríðsnota ef á reynir. Segja má að friðlýsing sé því ekki ósvipuð yfirlýsingu um vopnlaust hlutleysi - hvort tveggja setur traust á heppni eða riddaralega framkomu óvinar og felur ekki í sér baktryggingu ef brotið er gegn henni.

## Landsráðstefna SHA

Ráðstefna SHA verður á Akureyri. Þangað eiga kommúnistar að fara. Nú hefur kröfu um þjóðaratkvæðagreiðslu ekki borið jafn hátt og forvígismenn hennar sögðu að yrði. Skyldi veik afstaða SHA gegn Sovétríkjunum og vitneskja fólks um hve veikburða samtök okkar eru í hermálinu ekki ráða þar um? Og varla er von á umræðum um þjóðaratkvæðagreiðslu þegar umræða um varnarmál og öryggi fólks er nær engin.

Ef til vill ætlar miðnefnd SHA að hleypa lífi í baráttu fyrir þjóðaratkvæði með því að dusta rykið af hugmyndum um friðlýsingu N-Atlantshafsins, á ráðstefnunni.

Þar er rétt að sýna fram á kosti og galla friðlýsingar og hugsanlega að styðja slíka tillögu með þeim fyrir vara að öflug barátta gegn báðum risaveldunum og íslenskur viðbúnaður gegn stríði hljóti að vera mikilvægari.

-agé

Lausasala: kr. 400
Ársáskrift: kr. 6.000
Ársstuðningsáskr: kr. 12.000
Ársáskr. til útl: kr. 12.000

# Verkalýðsblaðið

## Upplýsingaskylda stjórnvalda

Margir kannast við baráttu Elíasar Davíðssonar fyrir að fá stjórnvöld til að opinbera samninga sína, opinberra og hálfopinberra stofnana, við Alþjóðabankann. En ráðamenn hvort heldur þeir eru ráðherrar eða bankastjórar þegja þunnu hljóði. Skiptir þar engu máli hvaða flokki þeir tilheyra, eða hversu hátt þeir hafa haft áður en þeir komust í þessar áhrifastöður.

Hver man ekki eftir árásum Vilmundar á dómsmálakerfið? Fór ekki heldur minna fyrir honum þegar hann var sestur í stólinn?

Hvern rekur minni til harðrar gagnrýni Svavars Gestssosar á afskipti erlends auðvalds af íslensku athafnalífi, meðan hann var ritstjóri Þjóðviljans? Í viðskiptaráðherratíð hans reyndi Elías Davíðsson árangurslaust að fá upplýsingar um samninga íslenskra stjórnvalda við Alþjóðabankann.



Reyndin hefur verið sú að þegar þessir "lýðræðislega" kjörnu fulltrúar almennings loks hafa möguleika á að veita okkur upplýsingar heyrist ekkert frá þeim.

### Ný lög

Ástæða þess að þetta er rifjað upp hér er sú að nú er fyrirhuguð setning laga um upplýsingaskyldu stjórnvalda. Hvernig svo sem þessi lög koma til með að verða, þá er það spor í rétta átt, að stjórnvöld viðurkenni að almenningur eigi rétt á upplýsingum og stjórnvöldum beri skylda til að veita þessar upplýsingar.

Við skulum samt ekki vera allt of bjartsýn á innihald og framkvæmd svona laga, því óneitanlega læðist að manni sá grunur að eftir sem áður verði eitt og annað sem fulltrúar okkar vilji fyrir okkur gera án vitundar okkar.

– ei

## Hvar er alþýðufræðslan

Það er stundum sagt að mennt sé máttur og mikið til í því. Hinu er ekki að leyna að fræðigreinar eru ekki hlutlausar eins og sagt er nema sumar hverjar. T.d. tekur sagnfræði mið af stéttarhagsmunum og túlkar atburði í samræmi við þá. Sagan er ólík af sjónarhóli burgeisans og verkamannsins. Stærðfræðin í sjálfu sér er ekki brennd þessu marki, en hins vegar er hægt að beita henni í þágu ólíkra afla og andstæðra.

innlent viðhorf

### Tvíeggjað skólakerfi

Skólakerfið er vettvangur stéttabaráttu og þar verða börnin okkar – vinnandi fólks – fyrir góðum og slæmum áhrifum. Margt fer þar fram eða heyrist sem slævir eða blekkir fólk. Annað er nytsamleg og örvandi þekking eða þjálfun.

Það hlýtur að vera einn þáttur í frelsis- og þjóðfélagsbaráttu verkalýðsins að efla menntun sína. Þeim mun meir sem hinn vinnandi maður veit um þjóðfélagið, náttúruna og sjálfan manninn, þeim mun betur gengur honum að sjá við og berjast gegn auðstéttinni. Fulltrúar hennar eru vel upplýstir og geta "keypt" þekkingu og aðstoð.

Í opinberum fjölmiðlum eða innan veggja opinberra stofnana er allt of lítið af tiltækjum sem fræða alþýðu manna.



### Krefjumst aukinnar alþýðufræðslu

Háskólinn á að heita öllum opinn, þ.e.a.s. fyrirlestrarnir. Til eru kvöldskólar og öldungadeildir, fræðsluerindi hljóðvarps og fræðslu myndir sjónvarps, tímarit eins og Náttúrufræðingurinn og margt fleira.

En betur má ef duga skal. Hér skal aðeins minnt á þrennt. Íslensk söfn, t.d. Listasafnið, Þjóðminjasafnið og Náttúrugripasafnið eru dauðar stofnanir að mörgu leyti. Þau standa ekki fyrir fræðslufundum, lifandi sýningum og eru sérlega fjársvelt að auki. Náttúrufræðistofnun má ráða tvo jarðfræðinga og nota 100 ferm. sal undir jarðfræði Íslands meðan hin "arðbæra" Orkustofnun ræður 32 jarðfræðinga og notar 100 ferm. sal til stopulla funda.

Íslenskir ríkisfjölmiðlar flytja erlent fræðsluefni í yfirgnæfandi mæli. Sjónvarpið hefur allt of lítið fé til þess að búa til alþýðlega en vandaða fræðsluþætti á borð við veðurfræðiþætti Markúsar Á. Einarssonar. Loks má benda á að fjöldi íslenskra vísinda-

Framhald á síðu 2

*BHM:*

## Ertu réttlaus með öllu?

Þú lest í blöðunum að Bandalag háskólamanna hafi undirritað hluta af kjarasamningi þar sem fram koma atriði sem þú hefur aldrei fengið tækifæri til að ræða, hvað þá greiða atkvæði um.

Blöðin færa þér líka fréttir um að samninganefndin "þín" hafi lagt fram launakröfur sem þú veist ekkert um.

Þú minnist þess að þú fékkst aldrei að ræða kröfurnar til ríkisvaldsins sumarið 1979 sem kjaradómur hafnaði að mestu nærri ári seinna án þess að fundir væru nokkru sinni kallaðir saman handa almennum félögum BHM allan tímann.

Þú veltir vöngum yfir lýðræði á Íslandi. Þú veltir vöngum yfir því að þér eru skömmtuð kjör eftir því hverju BSRB nær fram og minnist þess að þér hefur verið neitað um verkfalls- og samningsrétt af því að þú ert háskólamenntaður, opinber starfsmaður – og sagður hálaunaður með um 540 þús kr grunnlaun.

Mest hugsarðu þó um útskýringar sumra forystumanna þinna og fleiri á óvenjulegum starfsháttum BHM. Þeir segja að það þýði ekki að reyna að ræða kröfur, skipuleggja aðgerðir eða berjast vegna þess að hinn almenni félagsmaður nenni því ekki.

Skyldi vera eitthvað til í þessu og ætli eitthvað sé að starfsháttum forystunnar og afstöðu til kjarkmikillar kjarabaráttu?

Fréttaritari í BHM



*Gerist áskrifendur*

Miklar líkur eru á að Verkalýðsblaðið leggi út í verulegar útlitsbætur sem kosta munu töluverðar fjárhæðir. Í kjölfar þessara umbóta mun útkoman verða reglulegri en í sumar. 14. tbl. kom t.d. tveimur vikum síðar út en ætlað var. En því miður munum við samt ekki geta haldið blaðinu úti hálfsmánaðarlega eins og undanfarin tvö ár. Blaðið kemur hér eftir út á þriggja vikna fresti um óákveðinn tíma.

Til þess að hjálpa okkur með útlitsbreytingarnar og flýta fyrir hálfsmánaðarútgáfu á ný, getur þú lesandi góður, gert margt. Þú getur sent okkur peningagjöf svarað innheimtu frá okkur greiðlega eða hjálpað okkur að selja blaðið í lausasölu. En mikilvægasta hjálpin er fólgin í því að útvega okkur einn eða fleiri ÁSKRIFENDUR sem greiða áskrift (kr 6000) fyrirfram.

Við leggjum út í útgjaldaaukningu beinlínis með því að treysta lesendum fyrir því að útvega hluta af 200 nýjum áskrifendum og einni milljón króna, fyrir 1.feb. 1981. Taktu á með okkur!

-ritnefnd.